# Reglur

## fyrir nýu Fólkstali, sem eptir allrahærsta Kóngsbréfi 25. Febrúarii 1840 er uppá-bodid og ákvedid ad fyrirtakist á Islandi þann 2. Nóvember s. á.

---

1. Fólkstalid byrjast þann 2ann Nóvembr. 1840 og framheldst, einsog mögulegt er í sífellu, hvörn fylgjandi virkan dag, þángad til þad er fullkomnad.

2. Sérhvör Sóknarprestur láti Hreppstjóra, eda adra í þeirra forfollum, sem af Sýslumanni verda þartil nefndir, upp-teikna bæ fyrir bæ heila fólkstalid í hvörri sókn útaf fyrir sig; þó er þeim sem fólkstalid taka, leift, í stad þess ad fara bæ frá bæ, ad boda húsbændur frá bæjum, sem liggja mjög lángt burtu, ad mæta þann tiltekna dag á hentug-um stad, til ad gjöra grein fyrir fólkstalinu.

3. Einsog hinsvegar prentad Schema ávísar, eiga enir tilnefndu menn ad uppskrifa á medfylgjandi Optegnelse, þ. e. strik-adar töblur í regludum rödum:

a) í fyrstu röd, nafn hvörs bæjar, med hjásettri tölu á heimajörd, hjáleigu, grashúsi, tómthúsi.

b) í adra röd, tölu býlanna á hvorri jörd, í hvörju húsi. Fyrir Býli (Familier) skiljast hvört heimili í sama búi. Húsfólk karl eda kona ad dvöl í einu húsi álítst ekki sem adskilid Býli, þegar þau hafa ei bú (Husholdning) útaf fyrir sig, en eru í kosti hjá ödrum.

c) í þridju röd, allra persónanna nöfn í hvörju býli heimajardar, hjáleigu etc.

d) í fjórdu röd, hvörrar persónu aldursár, ad medreiknudu því sem hún er á komin t. d. vid nýfædd börn skrifast 1, og vid þann sem er á 26ta ári 26, og ei 25.

e) í fimtu röd, gipta, ógipta, ekkjumenn eda ekkjur, adskilin hjón innfærast sem ekkjumenn eda ekkjur, þótt þau séu ei skilin nema ad bordi og sæng.

f) í sjöttu röd, persónanna titil, embætti, sýslun, handverk, næringarveg, stétt eda atvinnu, ef nokkurs næringarveg-ir eru ýmislegir, tileinkast honum sá er hann helst lifir af, svoleidis skal um húsfólk einninn innfærast af hvörju þad einkanlega lifir.

4. Þegar fólkstalid er tekid, reiknast sá til hvörs býlis, sem þar er á heimilisfastur, og innilykjast þessvegna í því heim-ili svo vel fiskiródramenn, sendimenn, og adrir sem af hendingu kunna fólkstöludaginn ad vera afbæar, en skóla- og lærdóms-piltar, líka tökubörn og nidursetningar, teljast þar sem þeir fyrirfinnast þann dag; þeir sem sitja í vardhaldi teljast á þeim stad, en ekki sem tilheyrandi því heimili hvadan þeir eru teknir.

5. Börn sem fædast eptir þann 2an Nóvember 1840, og ádurenn fólkstölunni kynni vera lokid, koma ekki í talid, og persónur sem deya á tédu tímabili; verda sem ádur í lifendra tölu, svo af heilu tölunni megi sjást fólksfjöldans rétta ástand þann tiltekna dag.

6. Einsog Sóknarpresturinn á ad afhenda Hreppstjóranum, eda þeim í hans stad tilnefnda manni eitt Exemplar af hér-greindum reglum fyrir fólkstalinu med hjáþryktu töbluformi (Schema), og eptir þörfum eina eda fleiri hreinar regl-adar arkir (Optegnelse) undir fólkstölulistana, svo ber Sóknarprestinum einnin ad géfa honum frekari vegleidslu sem þurfa kynni, og sérdeilis minna hann á, ad vanda sem best þetta verk, samt ef tilefni gjæfist, sannfæra vidkomendur um, ad svo sem tilgángurinn einúngis er ad géta fullkomlega rent auga yfir Ríkisins fólksfjölda, og hans ymsa verulega parta, sé hér ekki hin minsta orsök til, ad draga dul ad neinu.

Allir fólkstölulistarnir, er undirskrifast af þeim mönnum, sem þá hafa samantekid, fylgist ad fyrir hvörja sókn og afhendist Sóknarprestinum.

Þrjú [illegible] framgreind document — athuga semda bréf. og optegnelse til fólks-talsins [illegible] medtekid frá sýslumanninum Sr. Eggert á Ballará þann 20 oct. 184[illegible]
G. Jónsson

# Schema til fólkstölulista á Íslandi.

| Tala og nafn Staða og Bæja á heimajørd, hjáleigu, í grashúsi, tómthúsi. | Tal Býla á hvørri jørd í hvørju húsi. | Allra persóna nafn í hvørju býli á heimajørd, hjáleigu etc. | Sérhvørs aldurs ár. | Giptur, ógiptur, ekkill eda ekkja. | Persónanna titill, embætti, sýslan, handverk, næríngarvegur, stétt eda atvinna. |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. Bólstadur Prestsetur. | 1 | Magnús Jónsson. | 50 | giptur | Sóknarprestur. Prófastur. |
| | | Gudrún Arnadóttir. | 40 | gipt | hans kona. |
| | | Arni Magnússon. | 12 | ógipt | þeirra børn. |
| | | Þrúdur Magnúsdóttir. | 5 | | |
| | | Jón Jónsson. | 75 | ekkill | emerit prestur, fadir Prófastsins. |
| | | Þrúdur Arnadóttir. | 66 | ekkja | módir prófasts konunnar. |
| | | Þorleifur Loptsson. | 24 | ógiptur | Vinnumenn. |
| | | Gunnar Jónsson. | 22 | ógiptur | |
| | | Arnor Pálsson. | 15 | ógiptur | kénnslupiltur. |
| | | Anna Jónsdóttir. | 28 | ógipt | vinnukonur. |
| | | Þurídur Einarsdóttir. | 23 | ógipt | |
| | | Hallur Olafsson. | 69 | ekkill | nidursetníngur. |
| 2. Gardhús hjáleiga. | 1 | Dadi Oddsson. | 36 | giptur | húsbóndi, examínatus júris. |
| | | Jóreidur Helgadóttir. | 33 | gipt | hans kona. |
| | | Agnes Ormsdóttir. | 19 | ógipt | vinnukona. |
| | | Oddur Jónsson. | 70 | ekkill | fadir húsbóndans, húsmadur, lifir af sínu. |
| 3. Akur grashús. | 1 | Maren Hansdóttir. | 52 | ekkja | húsmódir. |
| | | Andres Alfsson. | 24 | ógiptur | hennar son og fyrirvinna. |
| | | Herdýs Narfadóttir. | 18 | ógipt | hennar uppeldisdóttir. |
| 4. Hólbúd tómthús. | 1 | Indridi Rafnsson. | 52 | ekkill | Lóts, skilinn frá konu sinni ad b. og sæng. |
| | | Arnbjørg Géstsdóttir. | 36 | gipt | Bústýra. |
| | | Oluf Arnljótsdóttir. | 7 | ógipt | hennar barn. |
| 5. Bjarg heimajørd. | 2 | Þóroddur Hjálmsson. | 48 | giptur | Hreppstjóri, á jørdina. |
| | | Elsa Antoníusdóttir. | 46 | gipt | hans kona, yfirsetukona. |
| | | Jónatan Þorbergsson. | 23 | ógiptur | vinnumadur, góð skytta. |
| | | Kristin Illugadóttir. | 25 | ógipt | vinnukona. |
| | | Una Jónatansdóttir. | 2 | ógipt | þeirra barn. |
| | | Astrídur Ornólfsdóttir. | 64 | ekkja | húskona í brandi húsbændanna. |
| | | Helgi Þorvardsson. | 56 | ekkill | húsbóndi, medhjálpari, forlíkunarmadur. |
| | | Oddný Asbjørnsdóttir. | 40 | ógipt | Bústýra. |
| | | Arndýs Bessadóttir. | 24 | ógipt | vinnukona. |
| | | Einar Arnason. | 10 | ógiptur | tøkubarn. |
| 6. Halakot hjáleiga. | 2 | Jón Erlendsson. | 45 | giptur | eigineignarmadur. Dannebrogsmadur. |
| | | Hólmfrídur Jónsdóttir. | 40 | gipt | hans kona. |
| | | Gudmundur Jónsson. | 20 | ógiptur | þeirra son. |
| | | Gudleif Jónsdóttir. | 27 | ógipt | vinnukona. |
| | | Arnes Greipsson. | 45 | ekkill | skilinn vid konu sína, er í vardhaldi. |
| | | Ivar Þormódsson. | 26 | giptur | húsbóndi, stefnuvottur. |
| | | Þórey Gisursdóttir | 24 | gipt | hans kona. |
| | | Narfi Bárdarson. | 18 | ógiptur | vinnumadur. |
| | | Gróa Bjørnsdóttir. | 20 | ógipt | systir konunnar. |
| | | Gunnar Sighvatsson. | 32 | giptur | húsmadur. Póstur. |
| Summa. | Býli. | Persónur. | | | |